# Reglur
fyrir
# Kúabólu-Setjara.

Beitistødum, 1817.
Prentadar af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord.

Sá er Kúabólu vill setja kunna, hlýtur ad vita tvo hluti: 1.) ad þeckja sjálfa Kúabóluna, og 2.) ad kuña ad setja hana. Af fylgjandi kenniteiknum þeckist hún:

1.) Kemur Kúabólan øldúngis ecki fyrri út enn á 4da degi eptir setnínguna, en opt miklu seinna, og hefir þá takmarkad pláts.

2.) Hefir Bólan sjálf audþeckta lægd eda laut í sjálfum kollinum eda midjunni, hvar í sem optast er lítid vos, tídast dockleitt, en þó á stundum lítid grænleitt.

3.) Er rønd Bólunnar utan um lautina upptútnud, hvítleit og full af tærum vetsa.

4.) Er kríngum Bóluna raudur hríngur á hørundinu, misjafnlega breidur og á stundum nockud bólginn.

5.) Se stúngid í rønd Bóluñar utantil vid lautina, gefur hid stúngna gat vetsann frá ser í smá dropum; se og stúngid á í fleirum stødum á somu Bólu, gefur hvørt gat fyri sig einn vetsahnapp, hvarí Kúabólan er ólik øllum ødrum Bólum og kýlum, þared þeirra, vetsi

med

med einni einustu stúngu, allur og í einu úttæmist eda kann ad útfærast.

6.) Er vetzinn í Rúabólunnar rønd fullkomlega gagnsær, sem klárasta vatn eda krystallus væri.

7.) Vex Bólan til ens 9da dags, þá hún er ordin fullkomin; um þeßar mundir fylgir med Bóluñi: þroti í þeim særda lim, bólga og stirdleiki í handleggs-krika, og stundum køldu adkeñingar, lítill hofudverkur og slen, hvad allt þó smámsaman um skamt minkar og þverr ad øllu.

8.) Hjerumbil þann 12ta dag, tekur hid litla vos í kollinum ad sijæcka, þannig: ad af allri Bólunni, dag eptir dag, myndast sljettur brúnleitur hrúdur, sem þó, allteins og Bólan sjálf, skal hafa laut í midju: hrúdur þeßi fellur eda losnar af þann 21ta til 34da dag, og kann þá ad þjena til nýrrar Rúabólu setníngar, sem seinna mun tjád.

Skjaldan, þó kann þad vidbera, kemur Rúabólan útum allann líkhamann, en ef þad skedur, lídur hún á burt ad fáum døgum lidnum.

Øll sú Bóla, sem ecki hefir ofantalin kennimerki, skal álítast óekta; þó bid eg einkum adgætist vetzinn í Bólunni, eptir No. 5, samt Bólunnar útkoma, eptir No. 1, og hennar reglulegi framgángur.

Hvad Rúabólu setníngunni sjálfri vidvíkur, þá er þetta þrent athugandi:

1.) Verkfærid, sem Bólan er sett med: þad á ad vera Lanceta, eda tvíeggjud, fløt og oddskørp Nál.

2.) Vetz-

2.) Vetzinn, er inn skal setjast: sá vetzi er þar til bestur, sem tekinn er úr lifandi Bólu á manni, þañ 7da eda 8da dag, en se hann ecki til, skal taka gódann Kúabólu-hrúdur, ecki eldri enn mánadar gamlann, skafa eda smámylja hann, med litlum trestaut, í staup eda thebolla, láta svo 1 eda 2 dropa af tárhreinn volgu vatni drjúpa þará, og uppleysa hrúdurinn med því, ad gnúa hann út med stautnum. Taka má og þann í glasi geymda uppþornada vetza, og uppleysa hann á sama hátt med dropa vatns, er þá vøkvi þeßi allgódur til Kúabólu setníngar; þó álít eg ætíd þann af hrúdurnum betri, se ecki sú lifandi Bóla til.

3.) Setníngin sjálf: hún skedur þannig: Kúabólu Setjarinn velji helzt efri part handleggsins ad utanverdu, þenna stad skal hañ þvo og hreinsa fyrst og gnúa sídan lausliga; nú dýfir hann oddi nálarinnar í Kúabólu vetzann, og heldur þannig nálinni, ad vetzinn renni fram ad oddinum; þar eptir tekur hann vinstri handar fíngrum sínum undir handlegginn, og strengir med þeim nockud húdina, en stýngur nálinni innundir þá ytstu húd nockud á ská, hjerumbil ½ þumlúngs, lyptir svo oddi nálarinnar upp med skinninu á, til þeß ad vetzinn renni baka til vid nálina inní sárid, lidkar sídan nálina fram og aptur í sárinu, eda snýr henni á ýmsar hlidar, til þeß ad allur vetzi af henni þurkist, er svo nálin útdregin, en med oddi heñar þrýstist sárid saman. Á þenna hátt skulu 3 eda 4 stúngur gjørast á hvørjum handleggi, med 1½ þumlúngs millibili. Svo skal stúng, um þeßum varid, ad ecki blædi úr þeim, heldur ad eins vætli, því ella vildi Kúabólu-vetzinn renna út aptur med blódinu. Advara skal þá Kúabólusettu, ad þeir ecki klóri eda rífi í Kúabóluna med nøglunum, því bædi stemmir þetta Bóluna, og líka getur Kúabólu-vetzinn

med

med því móti komist í augun, eda adra vidqvæma lík-hamans parta; því er rádlegast, einkum á börnum, ad vefja handleggina hógliga fast med líntresti. Þerra skal Kúabólusetjarinn oddinn á verkfæri sínu eptir hvørja setníngu, þegar mørgum er sett í einu, því añars kann Kúabólu-vessinn audveldlega med skerpu sinni, ad spjalla oddinn, hvar vid setníngin kann ad misluckast.

Þær skyldur er serhvørjum Kúabólusetjara ber ad vardveita og rækja, ern þessar eptirfylgjandi:

1.) Skal hann af fremsta megni ástunda ad framgqvæma Kúabólu-setníngana.

2.) Skal hann leitast vid ad halda Kúabólunni lifandi, svo lengi mögulegt, þannig: ad ætíd se einhvør manneskja, sem hasi lifandi Bólu á ser.

3.) Þá gódu hrúdra skal hann umhyggjusamlega geyma, þannig: ad hvørr fyri sig se vafinn í margfaldañ líknarbelg, sídan allir í pappír, og geymist vid velgju á rakafríum stad.

4.) Skal hann halda reglulegann Prótókoll yfir alla af honum kúabólusettu, sem lagadur se eptir hjer med fylgjandi Formi.

5.) Skal hann engann iñfæra í þenna Prótókoll, nema þann, er hann sjálfur skodad hefir þann 8da eda 9da dag, og sem þar fyrir er fullviss um ad hafi fengid þá rettu Kúabólu, og má hann, í því efni, ecki trúa annarra søgusøgn um þad.

6.) Fyri hvørs árs 1ta Janúarii og 1ta Augústi, skal hann skyldur til ad innsenda Lista yfir alla þá, er hann í því tímabili hefir sett Kúabólu, og hún reglulega er útkomin á, til vidkomandi Læknis; er þad í Distriktunum til Distrikts Kirúrganna, og í Sudur-Distriktinu til Landphysikus. Listar þessir seu lagadir eins og Prótókollinn, og undirskrifadir med degi, dato og Kúabólusetjarans nafni.

7.) Skal

7.) Skal hann gefa þeim Kúabólusettu Atteſti, samqvæmt því formi, er hjermed fylgir, og hvar til honum af Yfirvaldinu munu Blanqvetter meddeilaſt.

8.) Þá, ſem ádur eru kúabóluſettir, en ecki hafa fengid Kúabólu Atteſti, ſkal hann áminna um ad útvega ſer þau hjá þeim, er þá bóluſett hafa; en geti þad ecki ſkjed, ſkal hann ſetja þeim Kúabólu á ný, og komi hún ecki út eptir 3 tilraunir, og audkennd ør ſjáiſt eptir þá fyrſtu ſetníngu, má hann gefa þeim Atteſti þannig: „ad þeir, þad ár, þann dag, hafi af þeim eda þeim „kúabóluſettir verid; en þar þeir ecki hafi fengid og ecki „heldur geti fengid Kúabólu Atteſti, því hafi hann á „ný þriſvarſinnum ſett þeim Kúabólu, ſem ecki hafi „reglulega útkomid, og þar audkennd ør ſjáiſt eptir þá „fyrſtu ſetníngu, meini hann þad ſannaſt, ad þeir hafi „fengid þá rettu og ekta Kúabólu." Sömu adferd brúkar hann vid þá, er ecki geta ſig honum ſýnt á rettum tíma, eda ádur enn hrúdrid fellur af.

Nesi vid Seltjørn, þann 20ta Jan. 1817.

O. Hjaltalin.
Diſtrikts Kirurgus og p. t. konſtitueradur Landphyſikus.

| No. | Nøfn enna Bólusettu. | Aldur. | Fædíngarstadur. | Foreldri. |
| --- | --- | --- | --- | --- |
| 1. | Jón Jónsson | 12 | Aundubrecka | Bændafólk |
| 2. | Signý Pálsd. | 16 | Backi | Prestur |

Fjósum, þann 3rta Decembr. 1817.

| Heilsu Tilstand. | Hvort Attest eru gefin eda ecki. | Attestisins Datum. | Athugasemdir |
| --- | --- | --- | --- |
| Heilsugódur. | Já. | 12ta Jan. | feck litiñ høfud verk, matleida |
| Kládfeld. | Já. | 14da Febr. | bólgnadi undir hendi. |

Brandur Brandsson.
Kúabólusetjari í N. N. Hrepp;
innan N. N. Sýslu.

## Kúabólu-setníngar Attesti.



FR. VI. Jóni Jónssyni, fæddum á Aundubrecku, en núverandi á Borgum, 12 ára gomlum, er af mér undirskrifud, um, árid 1817, þann 4da Janúarii, sett Kúabóla. Náqvæmlega skodadur millum þess 7da og 9da dags eptir setnínguna, hefir eg fundid hann ad hafa oll þau merki, er sýnad sú á honum útkomna Bóla, sé hin rètta ekta Kúabóla; Bólurnar vóru, nefnilega, heilar og óskaddadar, uppfylltar klárum vessa, hofdu laut í midju og vóru umgirdtar raudum hríng. Jón Jónsson hefir þvífengid þá rèttu ekta Kúabólu, sem framvegis vardveitir hann frá ad fá Smá- eda Barna-bóluna, hvad hèrmed uppá æru og samvitsku vitnast af

Sjósum, þ. 12ta Jan.
árid 1817. Brandi Brandssyni.
Kúabólusetjara í N. N. Hreppi,
innan N. N. Sýslu.

Oddur Hjaltalin.
1834.

